Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

48. tölublað . Þriðjudagurinn 19. desember 1978 7. árg. verð kr. 100.



# Uppsagnirnar á Grundartanga

Miklar uppsagnir hafa nýverið átt sér stað á Grundartanga. Ístak sem meðal annars er með verk á Grundartanga hefur sagt upp rúmlega helmingi starfsfólks síns þar og einnig hafa þeir sagt upp mönnum hjá Hrauneyjarfossvirkjun. Uppsagnarfrestur þessara starfsmanna er allt frá því að vera samdægurs og upp í einn mánuð. Ástæðan er sögð vera samdráttur.

Sagt upp samdægurs.

Kurteisi yfirmanna Ístaks á Grundartanga er ekki til að hrópa húrra fyrir. Tveimur starfsmönnum var sagt upp samdægurs, öðrum á þriðjudegi og hinum daginn eftir. Eftir að yfirtrúnaðarmaður staðarins komst í málið var því komið svo fyrir að þetta endurtæki sig ekki.

Útlit fyrir langan verkefnaskort.

Meðal þeirra manna sem sagt var upp hjá Ístak á Grundartanga voru ekki aðeins menn sem höfðu unnið stutt hjá fyrirtækinu heldur og verkstjórar og vörubílstjórar sem unnið höfðu nokkur ár hjá fyrirtækinu. Er því fyrirsjáanlegt að hér er um að ræða verkefnaskort langt fram í tímann.

Mikil hætta á atvinnuleysi.

Það má segja að hættan á atvinnuleysi hjá reykvískum verkafólki sé meiri en hún hefur verið undanfarin ár. Á skrifstofu LÍU liggur vanalega frammi listi yfir það á hvaða báta vantar mannskap. Þar er nú enginn slíkur listi. Þetta hefur ekki gerst í mörg ár. Hjá Eimskip er einnig fyrirsjáanlegt að samdráttur verður í fraktflutningum á komandi ári. Jólamánuðurinn er vanalega annamikill en annir eru nú sáralitlar borið saman við undanfarin ár. Enda hefur eitthvað verið um uppsagnir á Höfninni.

Hvað gerist?

Það er staðreynd sem ekki verður móti mælt að margt bendir til mikils atvinnuleysis í vetur.

Ríkisstjórnin ber hins vegar höfðinu við steininn og neitar að kannast við þessa hættu og hefur þar af leiðandi ekki gert neinar ráðstafanir gagnvart vandanum.

Hvað þá með verkalýðsforystuna? Hún er sama sinnis og "alþýðustjórnin". Hún trúir því heldur ekki að atvinnuleysi standi fyrir dyrum. Þess vegna hefur hún engar ráðstafanir gert til að berjast gegn atvinnuleysi. Jafnvel þótt það sé viðurkennt að atvinnuleysistryggingasjóður muni alls ekki geta gegnt hlutverki sínu ef til atvinnuleysis kemur.

Það er því ljóst að úrbætur í þessum efnum koma ekki frá ríkisstjórninni né heldur frá verkalýðsforystunni.

Verkafólk verður því að taka þessi mál til athugunar og ræða allar hugsanlegar leiðir í baráttunni. og knýja síðan á forystuna um að framkvæma það sem þessar umræður leiða til.

SUMIR ATVINNUREKENDUR ERU Í JÓLASKAPI ÞESSA DAGANA.




# „Klætt" kauprán

Þessa dagana er að líta dagsins ljós innihald "félagsmálapakka" ríkisstjórnarinnar. Ýmist er verið að lofa á ný hlutum sem búið er að semja um eða það er verið að svíkja loforð um áformaðar skattalækkanir.

Lögð hafa verið fram á Alþingi fyrir stuttu frumvörp til laga sem eiga að vera "kjarabætur" samkvæmt loforði ríkisstjórnarinnar frá 1. desember.

Þessi frumvörp fjalla um að lögtök megi gera hjá atvinnurekendum ef þeir greiði ekki orlof á tilsettum tíma. Sama gildir um önnur gjöld til stéttarfélaga. Einnig er ábyrgð ríkisins á vangoldnum launagreiðslum gjaldþrota fyrirtækis lengd í 18 mánuði aftur í tímann. Að síðustu er ákveðið að þessi ábyrgð nái einnig til lífeyrisgreiðslna.

Svikin loforð gefin aftur.

Á sínum tíma var samið um orlof og lífeyrissjóðsgreiðslur í stað beinna launa. Nú á það svo að reiknast til "kjarabóta" í stað kauphækkana sem koma áttu til framkvæmda 1. des. sl. að umsamdar greiðslur sem þessar verði inntar af hendi.

Þannig er félagsmálapakki ríkisstjórnarinnar áður gefin loforð sem hafa verið svikin. Fleiri atriði hafa verið boðuð og munu þau flest vera af svipuðu tagi og ofangreint.

"Skattalækkanirnar".

Skattalækkanir áttu að nema tvö prósent kauphækkun. Var meðal annars talað um niðurfellingu sjúkratryggingargjalds. Hinsvegar hefur komið á daginn að það hefur aðeins lækkað um hálft prósent, úr 2% í 1,5%. Þetta á síðan aðeins að koma til framkvæmda á "lægri tekjum". Markið er hinsvegar sett við 4.6 milljónir hjá hjónum, en það samsvarar því að grunnskólakennarar eru orðnir hátekjumenn.

Aðrar "skattalækkanir" áttu einnig að koma til. Og vissulega "lækka" skattarnir. En þess ber að gæta að áður var ríkisstjórnin búin að áforma stórhækkun skatta. Þessi lækkun er reiknuð út frá því. Á þessu sést að "lækkunin" verður þannig að áformuð skattahækkun verður ekki alveg eins mikil og ríkisstjórnin ætlaði að hafa hana. Þar við bætast nýjar álögur, s.s. hækkað útsvar, þannig að ljóst má vera að um stórfellda skattahækkun verður að ræða á næsta ári þrátt fyrir skollaleik "alþýðustjórnarinnar".

Ekki nakið heldur í dularklæðum.

Guðmundur J. Guðmundsson lýsir því ábúðarmikill í Þjóðviljanum á þriðjudag að það sé fáránlegt að líkja skertum vísitölugreiðslum 1. des. sl. við nakið kauprán síðustu stjórnar.

Eru þessi ummæli viðhöfð í tilefni af samþykkt verkamannafélagsins Hlífar í Hafnarfirði þar sem aðgerðir ríkisstjórnarinnar eru réttilega kallaðar kauprán.

Telur Guðmundur til ýmsar umbætur sem komið hafi í stað kauphækkananna og eins það að fullt samráð hafi verið haft við verkalýðshreyfinguna

Samráð við hvern?

Við hvern hafði ríkisstjórnin samráð þegar hún samdi kjaraskerðingarákvæðin? Svarið er eins og alltaf: Sína eigin gæðinga innan verkalýðshreyfingarinnar.

Verkafólkið sjálft er hins vegar einskis spurt og jafnvel ekki leitað álits einstakra verkalýðsfélaga. Samt telur Verkamannasamband Íslands sig geta fagnað aðgerðum ríkisstjórnarinnar og einstaklingar í forystuliðinu lýsa yfir að verkafólkið hafi samþykkt þær. Þessir menn eru farnir að líta svo stórt á sig að þeir segja næstum: Verkalýðurinn, það er ég.

Nýju fötin keisarans.

Eftir því sem meira kemur í ljós af "umbótunum" sem koma áttu í stað kauphækkana vex andstaðan meðal verkafólks. Það er því sama hvernig Guðmundur J. og félagar hans reyna að telja fólki trú um að hér sé ekki nakið kauprán á ferðinni, allt kemur fyrir ekki. Ríkisstjórnin og stuðningsmenn hennar standa eins afhjúpaðir og keisarinn í ævintýrinu um nýju fötin keisarans.

LEIÐARI

# Jólaspjall

Nú um þessar mundir er yfirstandandi mesta söluhátíð kaupahéðna þessa lands. Ekki er annað að sjá en að fólk hafi orðið að draga úr kaupæðinu þetta árið ef miða á við það sem tíðkaðist mörg þau fyrri fyrri. Ríkisstjórnin sem sumir kalla "stjórn fólksins" hefur heldur ekki setið aðgerðalaus í jólaundirbúningnum. "En það bar til um þessar mundir, að boð kom frá Óla Jó um að skattleggja skyldi alla landsbyggðina. Þetta var fyrsta skattlagningin er gjörð var, þá er Tómas var féhirðir á Íslandi". Eitthvað á þessa leið hljómar jólaguðspjall það sem "alþýðustjórnin" kirjar yfir þjóðinni. En hvort í því felst nokkurt fagnaðarerindi um fæðingu frelsarans á sviði efnahagslífsins skal stórefast um. Slíkt undur er aðeins að finna í hinni helgu bók og teljast efnahagsráðstafanir "alþýðustjórnarinnar" ekki til hennar. Við getum í mesta lagi haft "alþýðustjórninni" það til vorkunnar þar sem skrifað stendur: "Sælir eru fátækir í anda því þeirra er himnaríki." Sá "jólagjafapakki" sem þjóðinni er ætlað að opna nú um þessi jól hefur að geyma auknar álögur á verkalýðinn og aukið kauprán. Þennan "pakka" hefur "alþýðustjórnin" undirbúið í góðri samvinnu við verkalýðsforystuna. Það er því svo sannarlega ekki vanþörf á að minna þá góðu menn á boðskap hinnar helgu bókar þar skrifað stendur:"Sannarlega segi ég þér: þú munt alls ekki komast út þaðan, fyrr en þú hefir borgað hinn síðasta eyri". Ekki hafa heldur hinir svokölluðu "verkalýðsflokkar" sýnt það á nokkurn hátt að þeir séu þess trausts verðir sem þeim var sýnt í síðustu kosningum. "Verkalýðsflokkarnir" hafa svikið alla eiða sína og gengið á bak allra loforða sinna við verkalýðinn. Þess í stað hafa þeir kappkostað að hlaða undir auðvaldið sem stærstum hluta þess mikla arðs sem hin vinnandi hönd skapar. Þeim sem slíkt gjöra getur verkalýðurinn ekki treyst. Þessar athafnir sínar hafa þeir síðan reynt að réttlæta með því að segja að allir verði að bera sínar byrðar á meðan verið sé að minnka verðbólguna. Reyndin er sú að byrðarnar er verkalýðnum einum ætlað að bera. Í staðinn lofa þeir að komið verði á ýmsum félagslegum umbótum, sem sé, réttlætismál sem verkalýðurinn geti metið til fjár. "Sælir eru þeir, sem hungrar og þyrstir eftir réttlætinu, því að þeir munu saddir verða". Þessi orð hinnar helgu bókar er orðið að höfuðslagorði "verkalýðsflokkana". Það er verkalýðnum höfuðnauðsyn að draga rétta lærdóma af þessum kynnum sínum af þeim sem krýnt hafa sig "flokk verkalýðsins". Þeir eru úlfar í sauðagæru. En hverjum er þá treystandi mætti einhver spyrja? Er það kanski flokkur auðvaldsins, Sjálfstæðisflokkurinn? Nei, því samkvæmt orðum hans sjálfs hefur "alþýðustjórnin" verið að framkvæma það sem hann langaði að framkvæma en fékk ekki. Eini munurinn er sá að Sjálfstæðisflokkurinn vill ganga miklu mun lengra í kaupráninu. Þeim flokki er því síst af öllu treystandi til að sjá hagsmunum verkalýðsins borgið. Það er því aðeins einn kostur eftir fyrir verkalýðinn og hann er sá að leita út fyrir raðir þeirra flokka sem þegið hafa öll sín ráð um eiðsvaringu þar skrifað stendur: "En ræða yðar skal vera: já, já; nei, nei; en það sem er umframþetta, er af hinu vonda."Réttur lærdómur sem verkalýðurinn verður að draga af þessu er því að treysta á eigin krafta umfram allt. Það er einnig ljóst að sá getur aðeins verið flokkur verkalýðsins sem lifir og starfar á meðal hans og byggir allt sitt á honum. Þessi flokkur verður að vera fyrst og fremst þekktur af því að hann miðar ekki starf sitt við að smala saman atkvæðum í kosningum til að leiðtogar hans fái bitlinga. Þvert á móti til að geta þekkt flokk verkalýðsins verður að leita að þeim flokki sem raunverulega vill kollvarpa ríki auðvaldsins og byggja á rústum þess ríki verkalýðsins. Slíkur flokkur er Kommúnistaflokkur Íslands m-l.

# Opið bréf frá KFÍ/ML til EIK(m-l)

Hér birtist fimmti og næst síðasti hluti af svari framkvæmdanefndar miðstjórnar KFÍ/ML, við bréfi EIK(m-l). Sami háttur er hafður á og áður, að fyrst er birtur hluti úr bréfi EIK(m-l) og síðan svar okkar við honum. Enn er eftir að svara 9. lið bréfsins og verður það að bíða næsta blaðs, en þá kemur síðasta svarið við þessu bréfi.

## 5.Hluti.

Svaraverð atriði eru fleiri en ekki skal meira sagt í bili en þetta:

Afstaða okkar til"KFÍ/ML" hefur ekkert breyst við svar ykkar. Við teljum þó ekki rétt að merkja "flokkinn" sem skemmdarverkasamtök úr því þið lýsið yfir samþykki við suma hluta sameiningargrundvallarins.

En forsendur fyrir viðræðum, samvinnu og sameiningu eru enn leiðréttingar meiriháttar villna, uppgjör við heildarstefnu KSML og afturköllun verstu villnanna í síðasta bréfi ykkar. Svarið ykkar er ekki nothæft skref til sameiningar samtakanna.

Við stingum upp á opnum kappræðufundi um starf og stefnu KSML og afstöðu samtakanna beggja til KSML í febrúar 1979.

Við munum gefa út bækling um starf "KFÍ/ML" sem er í litlu samræmi við flestar yfirlýsingar "flokksins".

Við munum birta greinar í Verkalýðsblaðinu um stöðuna og gang sameiningarmálanna í vetur.

F. h. framkvæmdanefndar EIK(m-l)

Ari T. Guðmundsson.

## Svar

Niðurstöður ykkar eru þær að þið álítið það rangt að merkja KFÍ/ML sem skemmdarverkasamtök. Þetta fráhvarf frá fyrri yfirlýsingum er vonandi fyrsta skref ykkar til sameiningar við okkur.

Skilyrðin sem þið setjið í bréfinu um uppgjörið við heildarstefnu KSML er þegar uppfyllt. Um þetta uppgjör getið þið lesið í bæklingnum "Hvað vill KFÍ/ML". Það er því því ekkert annað fyrir ykkur að gera en standa við eitthvað af yfirlýsingum ykkar um sameiningu við KFÍ/ML.

Við viljum þó bera fram eina ósk við ykkur, að þið setjið ekki stöðugt fram ný og ný skilyrði til þess að viðræður geti farið fram.

Í fyrsta bréfinu ykkar í vetur söguð þið til dæmis að við þyrftum aðeins að svara sameiningargrundvelli ykkar, en í nýjasta bréfi ykkar (16. 10. '78) kemur fram að við eigum að samþykkja hann og alþjóðaályktunina, gera upp við KSML og megin villur KFÍ/ML. Annars fari ekki einu sinni fram viðræður.

KFÍ/ML leggur því til að þið segið nú af eða á um það hvort þið viljið viðræður eða ekki og að þið leggið niður skilyrðapólitík ykkar í eitt skipti fyrir öll. Við getum fullvissað ykkur um að þið tapið engu á þeim viðræðum. Ef eittvað væri, þá ættuð þið að geta öðlast meiri þroska við þær. Félagar KFÍ/ML hafa mikla pólitíska reynslu og við erum viss um að bæði samtökin geta lært mikið hvort af öðru.

Í lok bréfs ykkar segist þið ætla að fylgjast með umræðunum í Verklýðsblaðinu í vetur. Lítið hefur verið um efndir á því enn og vonandi sjáið þið ykkur fært að leyfa félögum EIK(m-l) að fylgjast með viðræðunum í framtíðinni. Við teljum t.d. eðlilegt að þið birtið opin bréf okkar einnig í Verkalýðsblaðinu til að gefa félögum ykkar og stuðningsmönnum kost á að kynna sér báðar hliðar málanna. Það er mjög hættulegt að loka umræðurnar inni í miðstjórninni en gefa félögunum ekki kost á að vera þátttakendur í mótun stefnunnar.

Að lokum þá viljum við árétta að KFÍ/ML er ætíð reiðubúinn til viðræðna og febrúar '79 kemur vel til greina fyrir kappræðufund. Við tökum þátt í fundi þessum án nokkura skilyrða og vonum að undirbúningur geti hafist sem fyrst. Þó viljum við benda á að við teljum eðlilegt að fundurinn verði undirbúinn af báðum aðilum sameiginlega og að einn fundarstjóri verði frá hvorum samtökum.

# Land - Frelsi - Sjálfstæði

Framhald af síðu 5



Ku Klux Klan menn tóku sér stöðu fyrir framan lögreglustöð bæjarins, vel vopnaðir.

Fólkið var dregið út úr bílnum og misþyrmt alvarlega af hettuklæddum Klan-mönnum.

### Fá aftur land.

Forráðamenn United League í Missisippi tilkynntu að aðalverkefni samtakanna yrði hér eftir að krefjast lands fyrir svarta í Suðurríkjunum. Kjörorð aðgerðanna verða meðal annars: Land, frelsi, sjálfstæði og niður með Ku Klux Klan.

Flestir þátttakendanna voru amerískir svertingjar en margir voru einnig frá Asíu, Mexíkó og Puerto Rico. Fjöldi hvítra manna sem styður United League tók einnig þátt. Fæstir hvítu þátttakendanna voru þó frá Missisippi. "Margir hvítir íbúar í bænum styðja okkur," sagði einn þátttakandi, en þora ekki að sýna það af hræðslu við Ku Klux Klan."

Aðgerðir þessar voru hinar stærstu í Missisippi og þátttakendur komu frá 20 fylkjum Bandaríkjanna.


HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl.16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Samstaða Araba er forsenda sigurs yfir zionistum

Ræða þessi var flutt af Ástvaldi Ástvaldssyni á fundi Palestínunefndarinnar 29. nóvember sl. Sá fundur var haldinn í tilefni þess að Sameinuðu Þjóðirnar tileinkuðu þennan dag baráttu palestínsku þjóðarinnar fyrir réttmætum kröfum sínum um frelsun Palestínu undan kúgun og oki síonista. Þessi samþykkt Sameinuðu Þjóðanna sýnir okkur að samstaða með réttlátum málstað Palestínuaraba vex hröðum skrefum og hið rétta eðli síonismans kemur æ betur í ljós.

Fyrri hlutar þessarar ræðu hafa birtst í tveim síðustu tölublöðum Stéttabaráttunnar og birtist hér niðurlag ræðunnar.



Afhendingu friðarverðlauna Nóbels í ár mótmælt í Noregi.

Fundir arabaríkjanna hafa hafnað Camp David-samkomulaginu og sagt að það gangi freklega á rétt araba í Palestínu og á herteknu svæðunum Samkomulagið er sagt ganga þvert á ályktanir funda arabaríkjanna og ekki til þess fallið að leiða til réttláts friðar í Miðausturlöndum.

Níunda ráðstefna arabaríkjanna sem haldin var nú í byrjun nóvember, ákvað að bjóða ríkisstjórn Egyptalands að falla frá Camp David-samkomulaginu og undirrita ekki neina friðarsamninga við óvininn. Þetta gerir ráðstefnan í von um það að ríkisstjórn Egyptalands snúi aftur til samstöðu með öðrum arabaríkjum en vinni ekki einangruð að málefnum tengdum deilu araba og síonista. Ráðstefnan ítrekaði eftirfarandi markmið sameiginlegrar baráttu araba:

"1. Frelsun allra arabískra landssvæða, sem hernumin voru í júnístríðinu 1967 og engar tilslakanir varðandi þessi landssvæði né yfirgang gegn þjóðlegu sjálfstæði þeirra.

2. Frelsun Jerúsalem og andstaða gegn öllum áformum sem ekki fela í sér algjört sjálfstæði hinnar helgu borg.

3. Endurreisn þjóðlegra réttinda palestínskrar alþýðu, þ.á m. réttarins til að snúa aftur til heimalands síns, sjálfsákvörðunar og til að stofna sjálfstætt palestínskt ríki undir leiðsögn eina löglega fulltrúa Palestínumanna, PLO. Arabaríkin ábyrgist að aðstoða þetta ríki eftir stofnun þess á allan hugsanlegan hátt.

4. Palestínumálið er mál allra araba og ekkert arabaríki getur skorast undan þeirri ábyrgð sem því fylgir."

Af því sem hér hefur verið sagt, ætti það að vera orðið ljóst að arabar eru staðfastir í að láta í engu undan útþenslustefnu síonista og þeir hafa snúist af hörku gegn hinum nýja bandamanni þeirra, Sadat Egyptalandaforseta. Camp David viðræðurnar og samkomulagið sem þar var undirritað, hefur aðeins orðið til þess að skerpa þá baráttu sem arabísk alþýða heyr gegn yfirgangi heimsvaldastefnunnar og útþenslustefnu síonista. Sadat hefur með brambolti sínu aðeins aukið á eigin vandræði, auk þess að hafa gerst stuðningsmaður heimsvaldasinnaðra hagsmuna Bandaríkjanna í Miðausturlöndum.

Á níundu ráðstefnunni var einnig samþykkt að hefja víðtækar aðgerðir um allan heim, til þess að skýra réttlátan málstað palestínskrar alþýðu og annara arabaþjóða og ráðstefnan lét í ljós þakklæti og viðurkenningu sína við þau ríki sem stutt hafa málstað araba. Þessi stuðningur er mjög mikilvægur fyrir baráttuna gegn síonismanum og heimsvaldastefnunni.

## 3. hluti.

Eitt af markmiðunum með stofnun íslensku palestínunefndarinnar var að vinna Ísland á band með málstað Palestínumanna. Þetta er mjög mikilvægt og enn er langt í land. En til þess að þetta markmið megi nást, verður að efla stuðningsstarfið til mikilla muna. Til þess að það sé hægt verður Palestínunefndin að stækka, hún þarf að eignast stærri hóp virkra stuðningsmanna og hún þarfnast alls þess stuðnings sem hún getur fengið, hvort sem hann er stór eða smár. Það verkefni sem er númer eitt í þessu starfi er aukin útbreiðsla á staðreyndum um palestínumálið og málstað Palestínumanna. Það vantar fólk til að þýða úr erlendum tungumálum og það vantar fólk til að vinna alla aðra vinnu sem nauðsynleg er til að koma málstað Palestínumanna á framfæri við íslenskan almenning. Ég skora því á þá sem hér eru staddir, að koma til starfa í Palestínunefndinni, jafnvel þó þeim finnist þeir hafa lítinn tíma. Margt smátt gerir eitt stórt. Og reynið að draga kunningjana á flot.

Lifi frjáls Palestína !

## Dagblaðið og rasistar

Fundur um málefni Afríku, haldinn á vegum Félags íslenskra stúdenta í Osló og nágrenni 1.11.1978, ályktar:

Okkur hefur borist til eyrna að Dagblaðið í Reykjavík hafi slegið upp sem forsíðufrétt bréfi frá einum af málaliðum hinnar ólöglegu Smithstjórnar í Zimbabve (Ródesíu). Málaliði þessi, sem er af íslenskum uppruna, lýsir fjálglega hvernig koma beri fram við þá "innfæddu". Blýið og jörðin geymi þá best - og þar að auki séu þeir svo fjárans hræddir.

Dagblaðið nefnir ekki að Zimbabve er hernumið af hinni ólöglegu stjórn Smiths og að barátta zimbabvönsku þjóðarinnar fyrir sjálfstæði og sjálfræði er fullkomlega réttmæt og nýtur víðtæks stuðnings víða um heim á meðan ekkert land hefur einu sinni viðurkennt Smithstjórnina þau 13 ár sem hún hefur verið við lýði. Með þessum fréttaflutningi skipar Dagblaðið sér í lið allra afturhaldssömustu nýlendustefnu í heimi

Vilji Dagblaðið hreinsa æru sína í augum andheimsvaldasinna og alls ærlegs fólks á Íslandi, er það siðferðisleg skylda þess að skipuleggja og á annan hátt leggja lið söfnun peninga og/eða annara hjálpargagna til "Patriotic Front" sem eru þau samtök sem skipuleggja og leiða baráttu Zimbabvemanna gegn hinni ólöglegu stjórn Smiths.

(fréttatilkynning)

## Fréttatilkynningar frá námsmönnum erlendis

# Námsmenn í Lundi mótmæla skerðingu námslána

Greinilegt er að íslenskir námsmenn ætla ekki að láta ríkisstjórninni líðast að svíkja loforð um hækkun lána. Samkvæmt fjárlögum munu námslán skerðast enn frekar, eins og bent er á í eftirfarandi ályktun Síne-deildarinnar í Lundi, sem STÉTTABARÁTTUNNI barst nýlega.

Lundi 11.des. 1978

"Fundur í SÍNE-deildinni í Lundi, haldinn 10.des. 1978, ítrekar fyrri áskorun deildarinnar til Alþingis, um að hækka framlög til Lánasjóðs íslenskra námsmanna, á fjárlögum þeim sem nú eru til afgreiðslu. Verði það ekki gert, er ljóst að sjóðurinn getur ekki greitt 85% lánsþarfar námsmanna, miðað við þær úthlutunarreglur sem gilt hafa, hvað þá að unnt verði að brúa 100% lánsþarfar, eða taka fullt tillit til fjölskyldu námsmanns eins og lög gera ráð fyrir.

Fundurinn fagnar því, að nú er unnið að gerð nýrra úthlutunarregla, þar sem tillit á að taka til fjölskyldu námsmanns. Hins vegar ályktar fundurinn gegn þeirri lausn þessara mála, sem fram kemur í "Frumdrögum að nýjum úthlutunarreglum", sem nýskipaður formaður stjórnar Lánsjóðsins hefur lagt fram. Drögin eru til þess fallin, að sundra námsmönnum og mismuna, vegna þess að samkvæmt þeim á að mæta auknum kostnaði Lánasjóðsins vegna tillits til fjölskyldu, með "annari dreifingu" hliðstæðrar fjárveitingar og verið hefur. Allt það jákvæða sem fram kemur í þessum drögum, verður ur staðreynd ef engu betur sú staðreynd er höfð í huga að ekkert raunhæft mat á framfærslukostnaði liggur fyrir og gert er ráð fyrir að námsmenn fái reiknað hlutfall af lánsþörf eftir því hve fjárveiting til Lánasjóðs er mikil. Þessi drög fela ekki í sér lausn fyrir námsmenn. Lausn á þeirra málum felst í raunhæfu kostnaðarmati byggðu á fjölskyldustærð og 100% brúun lánsþarfar, ásamt því að fjárveiting sé háð þörfum Lánasjóðs, en úthlutun Lánasjóðs ekki háð fjárveitingu Alþingis hverju sinni, eins og nú er gert ráð fyrir.

Við endurskoðun á reglugerðum og lögum Lánasjóðsins, hlýtur það sem endranær, að vera hlutverk fulltrúa námsmanna í stjórn sjóðsins að bera fram kröfur fyrir hönd umbjóðenda sinna, sem eru í anda stefnuyfirlýsingar okkar allra, en ekki að "makka" um lausnir af því tagi sem hér að ofan greinir".

Fyrir hönd SÍNE-deildarinnar í Lundi

Kristinn Karlsson
formaður.

# Kröfur námsmanna í Osló

Osló 4.12. 1978

Varðandi yfirstandandi gerð breyttrar reglugerðar LÍN, hefur fundur haldinn í Oslódeild SÍNE 26.11.1978, ályktað að eftirfarandi verði efnislega að finna í hinni nýju reglugerð.

1. Fullt tillit verði tekið til fjölskyldu námsmanns, við útreikning láns.
2. Umframfjárþörf verði að fullu brúuð.
3. Marktekjur verði hækkaðar verulega og umframtekjur dragist aðeins að hluta frá námsláni.
4. Veittur verði ferðastyrkur til lögheimilis á Íslandi og taki hann til allra fjölskyldumeðlima námsmanns.
5. Veitt verði fullt lán í eitt misseri til námsmanns við barnsfæðingu.

f.h. stjórnar Oslódeildar Síne
Málfríður K. Kristiansen

 Heimshorna á milli




Kortið sýnir fjóra megin strauma í innrás víetnama í Kampuchea.

# Stríð víetnama gegn Kambódíu

Víetnömsku herirnir fara sífellt lengra inn í Kampuchea. Herirnir eru nú um það bil fjórar mílur frá borginni Kratie (sjá kortið). Til viðbótar harðri andspyrnu Kampuchea, eiga Víetnamar nú við erfiðleika að stríða vegna flóða sem fylgja í kjölfar regntímabilsins.

Víetnamar eru sagðir sækja í fjórum megin straumum. Því til viðbótar senda þeir skemmdaverkamenn bak við víglínu Kampuchea. Kvislingarnir sem kalla sig "Einingarhreyfingu fyrir þjóðlegt sjálfstæði Kampuchea" halda uppi áróðursstríði gegn stjórninni í Phnom Penh.

Sóknin til borgarinnar Kratie hefur bersýnilega þann tilgang að skera á samgönguleiðir milli norðurhéraða landsins og höfuðborgarinnar, Phnom Penh. Vegir eru lélegir á þessu svæði og Mekongfljótið er aðal samgönguleiðin.

Víetnamski flugherinn gerir allt að 50 árásir á dag á svæðið umhverfis borgina Kratie og annars staðar við víglínuna.

Víetnamar hafa einnig ráðist inn í landið við Mondolkiri. Þar er tilgangur þeirra að loka þjóðvegi nr. 1 sem liggur milli Phnom Penh og Ho Chi Minh borgar.

Einnig hafa Víetnamar beint hernaðaraðgarðum sínum í þá átt að einangra höfuðborgina frá hafnarborginni Kompong Som. Þeir hafa ráðist á einu járnbrautina milli borganna sem og á þjóðveg 4 sem liggur milli þessara borga.

Kampucheanskur föðulandssvikari, Sat Sim, hefur að sögn fréttastofu Víetnams, VNA, fullyrt að ríkisstjórnin í Kampuchea hafi "brúkað nasískar aðferðir gagnvart kampucheönsku þjóðinni". Þetta er auðheyrilega bergmál af lygaáróðri Víetnama sjálfra



Víetnamskur brynvagn sem byltingarhermenn Kampuchea eyðilögðu í mars sl. Brynvagninum óku tveir rússar.

# Sovétmenn styðja hreyfingu kvislinganna

"Mikilvægasta verkefni Kampuchea er að steypa hinni villimannlegu stjórn Pol Pot og Leng Sary". Þetta er ekki tilvitnun í Elínu Pálmadóttur eða talsmenn bandaríkjastjórnar. Þetta er úr leiðara blaðsins Nhan Dan, málgagns Kommúnistaflokksins í Víetnam. Í leiðaranum var sagt frá stofnun "Einingarhreyfingar fyrir þjóðlegt sjálfstæði Kampuchea" sem Hanoi útvarpið hafði sagt frá. Þessi "hreyfing" er kvislingahreyfing sem studd er ákaft af Sovétmönn um og Víetnömum. Markmið hennar er að steypa stjórninni í Alþýðulýðveldinu Kampuchea og opna Kampuchea fyrir víetnamskri útþenslustefnu.

Strax og Víetnamar höfðu gert stofnun "hreyfingarinnar" opinbera, endurómaði TASS fréttastofan rússneska, undir heitinu Tilkynning frá fréttastofu Víetnams. Þetta sýnir okkur nokkuð um það hverjir standa bak við tilraunirnar til að steypa stjórn Pol Pots í Kampuchea og hverjir standa bak við þessa "hreyfingu".

Fréttastofa Víetnams, VNA, sagði frétt sína byggða á frétt um frá "Fréttastofu Kampuchea". Bent hefur verið hins vegar á að það fyrsta sem heyrðist frá þessari "Fréttastofu Kampuchea" voru nákvæmlega sömu fréttir og VNA hafði þá þegar sent út.

Samkvæmt VNA hafa föðurlandssvikararnir í Kampuchea stofnað útvarpsstöðina "Rödd kampucheönsku þjóðarinnar". Þessi stöð er hins vegar ekki staðsett í Kampuchea heldur í Víetnam.

Það er ljóst að allar pólitísk ar og hernaðarlegar ráðagerðir koma frá Hanoi (þar eru sovéskir "sérfræðingar") en hreyfingin er notuð sem dulargerfi til að geta kallað útþenslustefnu Víetnama í Kampuchea stríð alþýðunnar í Kampushea. Það er greinilegt að víetnamskir ráðamenn álíta innlimun Kampuchea erfiðara verk en þeir héldu. Myndun hreyfingar kvislinganna er vísbending um að víetnamskir ráðamenn hyggja á langt stríð gegn Kampuchea.



Hermenn úr byltingarher Kampuchea sækja gegn víetnömskum innrásaraðilum.

# Þumalskrúfur

Mogginn upplýsti fyrir skömmu í örstuttu máli, að Bandaríkin myndu nú hætta að selja þumalskrúfur og fótjárn til landa, þar sem mannréttindi væru ekki virt. Ekki var svo að sjá að með þessu legðist sala slíkra tóla þó alveg niður. Eflaust telja Bandaríkin einhverja vini sína þurfa á þeim að halda til að pynta "óvini mannréttindanna."

Í þessari yfirlýsingu felst auðvitað viðurkenning á því sem Mogginn hefur lengi viljað mótmæla, að Bandaríkin hafa séð alls kyns fasistum fyrir pyntingartækjum. T.d. er ný sending farin til Íran og blómleg urðu líka viðskiptin þegar fasistarnir komust til valda í Chile.

Ekki má heldur gleyma aðal "framverði" mannréttinda, Bandaríkjunum sjálfum. Þau hafa lengi beitt pyntingum gegn eigin stríðsföngum, t.d. í Kóreu og í Víetnam.

Alltaf annað slagið eru að koma upp í Bandaríkjunum, kærumál vegna misþyrminga á fólki í fangelsum þar vestra. Sérstaklega er meðferðin á svertingjum slæm. Ekki alls fyrir löngu birtist í bandarísku blaði, mynd sem fangavörður hafði tekið af föngum sem "gengu svipugöngin", en þá voru fangarnir látnir ganga naktir fram hjá tveim röðum fangavarða sem börðu þá með svipum. Einnig þekkist að menn séu hlekkjaðir niður í lengri tíma og ýmsar fleiri andlegar og líkamlegar pyntingar.

Hvaða Íslendingur kannast ekki við "góðu löggugæjana" úr bíómyndum, sem snúa upp á handlegg "glæponanna" eða vitnanna og dúndra gjarnan dálítið í kviðinn á þeim líka þegar illa gengur að afla upplýsinga?

Já, ekki er ofsögum sagt af virðingu Bandaríkjanna fyrir mannréttindum. Nú eru það bara þeir sem virða mannréttindin sem fá að kaupa þumalskrúfur...

Heimshorna á milli

# 4700 nýir kúbanskir „hernaðarsérfræðingar" til Angóla

Fjoldi kúbanskra "sérfræðinga, tæknimanna og pólitískra ráðgjafa" í Angóla á að fara úr 6000 í 10.700 á næsta ári. Þetta kemur fram í samningi kúbönsku og angólsku stjórnanna frá 30.nóv. sl. Þetta sýnir að Angóla er enn frekar fest í klær sovéskra yfirráða gegn um kúbanska leiguhermenn.

Þann 30.nóv. sl. voru 35 samþykktir og samningar milli Kúbu og Angóla undirritaður á Kúbu.

Þessir samningar eru á sviði efnahagsmála, varnarmála og sérstakra pólitískra málefna. Á sama tíma var líka samið um samvinnu Kúbu og Angóla hvað varðar tækni og vísindi.

Eftir að samningarnir höfðu verið opinberaðir, sagði varaforseti Kúbu, Raniro Valdes, að tala „sérfræðinga", tæknimanna og pólitískra ráðgjafa" hækkaði á næsta ári úr 6000 í 10.700.

Nú eru alls 25.000 kúbanskir hermenn í Angóla auk starfsmanna.

Samkvæmt fréttum enskra blaða stjórna kúbanskir og sovéskir "sérfræðingar og ráðgjafar" innanríkisráðuneyti, varnarmálaráðuneyti, fjármálaráðuneyti, öryggislögreglu, tollgæslu, bönkum og stofnun útflytjenda (emigration) í Angóla.




Forseti Angóla Agostino Neto og Fidel Kastro, þegar sá fyrrnefndi heimsótti Kúbu 1967. Nú hangir Neto við völd, algjörlega háður kúbönskum leiguhermönnum og sovéskri "aðstoð".

## Mótmæli gegn Ku Klux Klan í Bandaríkjunum

# Land - Frelsi - Sjálfstæði

Það fer ekki mikið fyrir fréttum af mannréttindabaráttu né annari stéttabaráttu í Bandaríkjunum. Þarlendar fréttastofur hafa sjálfsagt áhuga á að senda "öðruvísi" fréttir út í heim. En þar með er ekki sagt að þaðan sé ekkert að frétta.

Meira en 2000 manns frá syðri hlutum Bandaríkjanna komu saman þann 26.nóv. sl. í smábæ í Missisippi-fylki til að taka þátt í göngu til að vekja athygli á baráttu svartra í Bandaríkjunum. Skipuleggjandi aðgerðanna var United League samtök svertingja, en þau hafa aðalstöðvar í bænum Tupelo. Gangan fékk stuðning fjölda framfarasinnaðra hópa og samtaka í Bandaríkjunum.

Í þessum bæ höfðu hinir hvítu talsmenn kynþáttamisréttis, Ku Klux Klan menn, nýlega stofnað deild og hafið starf meðal hvítra íbúa þar og ofsóknir á hendur svörtum.

### Gegn öllu kynþáttamisrétti.

United League var upphaflega stofnað sem mótvægi við Ku Klux Klan, en hefur nú haslað sér víðari völl og tekið upp baráttu gegn öllu kynþáttamisrétti og kúgun þjóðernisminnihluta undir kjörorðinu Réttlæti fyrir alla.

Daginn sem aðgerðirnar fóru fram höfðu um 30 Klan menn tekið sér stöðu fyrir framan lögreglustöð bæjarins, vopnaðir rifflum, axarsköftum og sjálvirkum byssum.

En skipuleggjendur göngunnar höfðu séð við þeim og voru vel undirbúnir ef á þá yrði ráðist. Á eftir göngunni óku tveir vörubílar hlaðnir skotvopnum, þannig að Ku Klux Klan mennirnir þorðu ekki að láta til skarar skríða.

### Ráðist á göngumenn á heimleið

Klan-mennirnir réðust hins vegar á og misþyrmdu gróflega mörgu fólki sem var á heimleið frá aðgerðunum. Þannig var bíll með mótmælendur frá Atlanta umkringdur á myrkum vegi í Alabama.

Framhald á síðu 2

Þessir þátttakendur í aðgerðunum komu í strætó alla leið frá Milwaukee í Winscosin, til að mótmæla kynþáttamisrétti.



Þrír æðstu menn Kínverska Kommúnistaflokksins.

# Meiriháttar sigur kínverskrar utanríkisstefnu

Nýlega var frá því sagt í Peking og Washington að stjórnmálasamband verði tekið upp milli ríkjanna þann 1. janúar nk. Allt frá því byltingin var gerð í Kína árið 1949 hafa bandaríkjamenn reynt að einangra Kína og staðið í veginum fyrir þátttöku Kína í alþjóðlegu starfi. Þessi atburður hlýtur því að teljast til meiriháttar sigra kinversku utanríkisstefnunnar.

Í samningi ríkjanna er meðal annars viðurkennt af hálfu bandaríkjanna að aðeins eitt Kína sé til og að Taiwan sé hluti þess ríkis.

Samningur þessi hefur verið lengi á döfinni en jafnan staðið á bandaríkjastjórn að sleppa tangarhaldi sínu á eyjunni Taiwan. Kínverjar hafa hinsvegar alltaf réttilega sagt Taiwan vera hluta af Kína og líta á það sem innanríkismál Kína hvenær og á hvern hátt löndin verða sameinuð á nýjan leik. Kínverjar settu sem kunnugt er viðurkenningu þessarar staðreyndar sem skilyrði fyrir stjórnmálasambandi.

Í yfirlýsingu kínversku stjórnarinnar er því fagnað að eðlilegu sambandi hafi nú verið komið á milli ríkjanna og ítrekað að það sé innanríkismál Kína hvenær og á hvern hátt löndin sameinist á nýjan leik.

Í yfirlýsingunni er einnig gert kunnugt að Teng Hsiao Ping muni heimsækja Bandaríkin í janúar nk. til að treysta enn betur vináttu þjóðanna.

### Sameiginleg yfirlýsing.

Í sameiginlegri yfirlýsingu ríkjanna segir meðal annars að hvorugt ríkið "eigi" að reyna að ná yfirráðum í Asíu né öðrum heimshlutum og vilji snúast gegn öllum tilraunum annarra ríkja til drottnunar í Asíu. Einnig er lýst yfir vilja beggja ríkjanna til að "draga úr hernaðarátökum". Í yfirlýsingunni er líka sagt að hvorugt ríkið muni taka þátt í samstarfi sem beint sé gegn öðrum ríkjum.

Þannig viðurkenna bandaríkjamenn ekki aðeins Kína heldur einnig sjálfstæði og sjálfsákvörðunarrétt annarra ríkja. Það breytir þó að sjálfsögðu ekki heimsvaldasinnuðu eðli Bandaríkjanna þótt þeir sjái sér hag í því að skrifa undir fordæmingu á heimsvaldastefnu og þar með sjálfum sér.

### Afstöðubreyting kínverja?

Ýmsir hafa haldið því fram að þessi stjórnmálasamskipti séu merki um afstöðubreytingu kínverja, að þeir séu í ríkari mæli að "treysta á" bandaríkjamenn. Helstu talsmenn þessarar skoðunar eru sovétmenn en viðbrögð þeirra við þessum fréttum sýna best hvað þeir hræðast kínverja og stefnu þeirra í utanríkismálum en kínverjar hafa einmitt lagt mikið kapp á að einangra sovétmenn.

Í þessu máli hafa kínverjar ekki skipt um skoðun. Þeir hafa lengi viljað koma samskiptunum við bandaríkjamenn í eðlilegt horf. Það eru hinsvegar bandaríkjamenn sem hafa söðlað um og hætt áralangri andstöðu sinni við Kína. Það er ekki af ást á Kína og sósíalismanum þar sem bandaríkjamenn stíga þetta skref heldur vegna þess að þeir sjá sér hag í því.

Bandarískir auðherrar sjá í hillingum 900 milljón manna markað fyrir bandarískar iðnaðarvörur og vilja allt til vinna að komast þangað.

Í þeim tilgangi meðal annars fórna þeir Taiwan með glöðu geði. Í áratugi hefur bandaríska heimsvaldastefnan haldið lífinu í Chang Kæ Sjek klíkuna á Taiwan með hernaðar- og efnahagsaðstoð.

En þegar hagsmunir bandarísku heimsvaldastefnunnar, jafnvel ímyndaðir eins og í þessu dæmi, bjóða henni eitthvað annað þá eru jafnvel "bestu vinir" látnir sigla sinn sjó. Þetta gæti orðið holl lexía þeim íslendingum sem halda að ameríski herinn á Íslandi sé "til að verja Ísland".

### Kína - málsvari heimsfriðar.

Bandaríkjamenn hafa séð að Kína hyggur ekki á landvinninga gegn neinu ríki og að Kína vill efla frið í heiminum. Þess vegna ætla bandaríkjamenn að veðja á "friðsamlega leið" að kínverskum yfirráðum fyrst hernaðaraðgerðirnar mistókust.

Þess vegna hefur bandaríska heimsvaldastefnan ekki lengur not fyrir Taiwan sem stökkpall til árása á Kína.

Þess vegna hafa bandaríkjamenn skipt um skoðun og um leið veita þeir kínverjum óafvitandi óometanlega aðstoð við að koma friðarpólitík sinni á framfæri.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
48. tbl. 7. árg. 19/12 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.


# Fréttatilkynning frá Samtökum Herstöðva andstæðinga



## Hernámi og kúgun mótmælt

Myndin er frá útifundi SHA við sovéska sendiráðið 21. ágúst síðastliðinn.

Eins og fram hefur komið í fjölmiðlum, þá hefur Bandaríkjastjórn ákveðið að draga smám saman úr starfsliði á vegum þarlendra stjórnvalda, með þeim hætti að ráða einungis einn nýjan starfsmann fyrir hverja fimm sem láta af störfum. Nú vill svo til að Íslendingar starfandi hjá hernum flokkast undir starfslið Bandaríkjastjórnar. Því hefur utanríkisráðherra, Benedikt Gröndal, séð sig til þess knúinn að auðmýkja sjálfan sig, ríkisstjórnina og þjóðina alla með sérstakri bón til bandarískra stjórnvalda um að áðurgreindri ákvörðun verði ekki fylgt eftir hér á landi.

Samtök herstöðvaandstæðinga (SHA) telja þetta framferði utanríkisráðherra hneyksli og mælast til þess að Alþingi Íslendinga samþykki á hann vítur fyrir. Í fyrsta lagi virðist utanríkisráðherra ekki hafa nokkurt umboð til ráðstafana af þessu tagi, þar eð stjórnarsáttmáli ríkisstjórnarinnar fjallar í þessu sambandi einungis um óbreytt ástand í herstöðvamálinu auk ákvæðis varðandi nýframkvæmdir á vegum hersins. Ljóst er að ákvörðun Bandaríkjastjórnar tekur til hvorugs þessa, því ekki er áformað að fækka í herliðinu, né heldur að rifta samningum við verktaka og alls ekki er það ætlunin að segja upp starfsliði. Fullyrðingar um að þessi ákvörðun hafi merkjanleg áhrif á íslenskt efnahagslíf er því út í hött, nema að menn hafi gefið sér það sem forsendu að leggja bæri niður íslenskt atvinnulíf á Suðurnesjum í skjóli þess að herinn tæki við vinnuaflinu.
Í öðru lagi virðist utanríkisráðherra svo heltekinn af hugmyndafræði aronskunnar að efnahaglegt sjálfstæði þjóðarinnar er honum gjörsamlega úr sinni. Í stað þess að skýra afstöðu sína heima fyrir og æskja ráðstafana af hálfu stjórnvalda, vegna þeirra alvarlegu afleiðinga sem hann taldi að þessi ákvörðun hefði fyrir atvinnulíf á Suðurnesjum, þá hleypur hann og lýsir ráðleysi sínu og ríkisstjórnarinnar fyrir erlendum stjórnvöldum að henni forspurðri. Óttaðist utanríkisráðherra, Benedikt Gröndal, ásamt stuðningsmanni sínum í þessu máli, Karli Steinari Guðnasyni, formanni Verkalýðs- og sjómanna félags Keflavíkur, að ríkisstjórnin liti á þessa ákvörðun hýru auga í tengslum við áform sín um Suðurnesjaáætlun?

Gera verður þá kröfu til utanríkisráðherra að hann geri sér ljósar þær alvarlegu afleiðingar sem svona framferði getur haft í för með sér, og þá ekki síst með hliðsjón af því að það hefur verið yfirlýst stefna valdhafa, allt frá inngöngunni í NATO, að hér skuli ekki vera her á friðartímum. Bænarskrá utanríkisráðherra er hins vegar vísbending af hálfu íslenskra stjórnvalda um það að þau telji að Íslendingar geti ekki án hersins verið og til þess fallin annars vegar að gefa hinu erlenda herveldi hugmyndir um að hægt sé að kaupa upp íslensk stjórnvöld og hins vegar að gefa Íslendingum sjálfum ranga hugmynd um sjálfa sig. Ef Alþingi ekki vítir utanríkisráðherra fyrir þetta athæfi, þá er það nánast að viðurkenna réttmæti þess.

Það er skoðun SHA að aldrei verði nógu vel á verði staðið gegn ásókn erlends auðvalds og hervalds. Undanfarin ár hefur erlent einokunarauðmagn víða skotið rótum í íslensku efnahagslífi og óvéfengjanlega á kostnað efnahagslegrar hagsældar landsmanna. Á sama tíma hafa sumir Íslendingar séð sér nokkra von í hugsanlegri gjaldtöku af hernum. Eru hér á ferðinni viðhorf sem lúta að því að herinn sé ómissandi fyrir Íslendinga og að afkoma þjóðarbúsins megi gjarnan byggjast á gjaldtöku af honum. Blessunarlega hefur Alþingi ekki ljáð máls á slíku fram til þessa. Sé það hins vegar skoðun þess nú að utanríkisráðherra, Benedikt Gröndal, hafi ekki orðið á afglöp í starfi með áðurgreindri bón til bandarískra stjórnvalda, þá lítum við svo á að í því felist viðurkenning þess að Alþingi telji herinn ómissandi vegna efnahagslegrar afkomu þjóðarinnar, og að það viðurkenni að nokkru réttmæti þeirrar hugmyndafræði sem kallast hefur aronska.

Reykjavík 9. desember 1978
Framkvæmdastjórn SHA
Ásmundur Ásmundsson, form.

# Íslensk búnaðarbylting

Um miðbik 18. aldar, heppnaðist manninum að beisla áður ókunn öfl, sem leiddu til umtalsverðrar röskunar á samfélagsháttum á vesturlöndum. Vinnuafl leitaði frá landbúnaði og veiðiskap, til annara starfa sem buðu betri kjör, svo sem iðnaðar. Bændur máttu leita nýrra ráða til að sjá vaxandi þjóðum fyrir matvælum og sjálfum sér farboða. Kröfur um framleiðni jukust og leita þurfti nýrra afla, mannshönd, dráttardýri og jafnvel sólinni sjálfri til aðstoðar, svo landbúnaðurinn fengi skilað hlutverki sínu í hinu nýja samfélagi. Þá komu til sögunnar ýmsar vélar sem léttu bóndanum störfin og gerðu honum kleift og raunar kröfðust þess, að hann stækkaði við sig. Þetta þýddi aftur áður óþekkta samkeppni milli bænda sem höfðu verið nokkuð á sama báti, þannig að upp kom lagskipting meðal þeirra; minni bændur flosnuðu upp eða urðu að berjast í bökkunum til að viðhalda stéttartilveru sinni, meðan lítill hluti þeirra sem meira máttu sín, stækkuðu við sig, yfirleitt með því að stofna kaupfélög (sem síðar urðu að auðhringum), sem smábóndinn gat ekki keppt við.

Hér á landi urðu þessi umskipti ekki fyrr en um 1940, enda hófst tímabil iðnvæðingar tiltölulega seint hér á landi.

Þáttur rekstrarfanga í búskap byrjaði að aukast um þetta leyti og á tímabilinu 1943-1977 jukust afurðir vísitölubúsins um 250% en notkun aðfenginna rekstrarfanga 25-faldaðist. Ætla mætti að óathuguðu máli að vinnutími bænda hefði styst, vinnuálagið minnkað og tekjur aukist. En raunin verður sú að vinnutíminn hefur sáralítið breyst. Og hvað með arðinn af framleiðslunni? Jú, framleiðendur og seljendur rekstrarfanga taka sífellt stærri og stærri skerf af honum, þ.e. arður bóndans af eigin vinnu hverfur ofan í vasa ýmissa aðila sem selja honum vörur og þeirra sem koma framleiðslunni á markað.

Eins og áður sagði jókst framleiðsla landbúnaðarafurða hér á landi um 250% á árunum '43-'77, en hlutur rekstrarfanga jókst tífalt meir er framleiðsluaukningin. '43-búið uppskar tæpar 3 hitaeiningar í arð fyrir hverja hitaeiningu sem það þurfti að kosta til rekstrarins. '77-búið skilaði hins vegar tæplega 0,3 hitaeiningum af hverri hitaeiningu sem fór til framleiðslunnar. Ávinningur aukinnar framleiðni vegna tæknivæðingar hefur ekki lent í vösum bænda heldur í hlutfallslega lækkuðu verði til neytenda (að litlu leyti þó) og að mestu leyti til framleiðenda og seljenda hinna ýmsu rekstrarfanga.

Iðnvæðingin hefur vissulega létt störfin en hins vegar hefur aukist að sama skapi annað álag; fjármálaáhyggjur, baráttan fyrir stéttartilveru sinni og svo mætti lengi telja. Í dag er svo komið að öll völd í landbúnaðarmálum hérlendis eru í höndum örfárra manna, þ.e. eigenda afkvæmis kaupfélaganna, SÍS-auðhringsins.



Þrátt fyrir að stórvirkari vélar en þessi hafi rutt sér til rúms hefur ágóði hins almenna bónda af eigin vinnu ekki aukist að sama skapi.